Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

12. tbl. | Þriðjudagurinn 21. mars | 7. árgangur | Verð kr. 80.-

Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

## Mikil óánægja meðal meinatækna

Í síðustu aðalsamningum BSRB var samið um 33.33% vaktaálag frá kl. 17.00 til 24.00 vikudaga, en 45% frá kl. 24.00 til 08.00, laugardaga og sunnudaga. Þetta er breyting frá því sem áður var, en þá var aðeins greitt 33.33% vaktaálag.

En í úrskurði kjaranefndar nr. 11 1978 er ákveðið að meinatæknar o.fl. heilbrigðis stéttir fái aðeins 80% af þessu vaktaálagi. Þó fá t.d. hjúkrunarkonur og sjúkraþjálfarar 33.33% óskert. Þetta er kjaraskerðing sem meinatæknar sætta sig ekki við. Því hafa meinatæknar á Landspítalanum, Borgarspítalanum og Rannsóknarstofu Háskólans, tilkynnt að ef ekki fáist leiðrétting á þessu og fullt vaktaálag verði greitt nú þegar og það sem af er samningstímabilinu, þá sinni þeir ekki gæsluvöktum frá og með 1. apríl.

Einnig eru meinatæknar mjög óánægðir með röðun sína í launaflokka.

Almennir meinatæknar eru nú í 12. launaflokki BSRB sem er 167.004 kr. á mán. í grunnkaup. Í úrskurði kjaranefndar nr. 11 1978 er að finna svofellda skilgreiningu á 12. launaflokki: "Sjálfstæð þjálfunar-, uppeldis- og leiðbeiningarstörf, þar sem meiri sérmenntunar er krafist að viðbættri starfsþjálfun. Meinatæknir". (Meiri sérmenntunar er krafist en í 11. launaflokki). Þessi starfslýsing kemur engan veginn heim og saman við störf meinatækna. Meinatæknar vinna að rannsóknum á t.d. blóð-, þvag-, saur- og vefjasýnum svo eitthvað sé nefnt. Þeir koma ekki nálægt þjálfunar-, uppeldis- eða leiðbeiningarstörfum. Orðinu "Meinatæknir" er bætt þarna við án allra skynsamlegra raka. Aftur á móti er 14. launaflokkur skilgreindur svona: "Sjálfstæð og breytileg rannsóknarstörf, þar sem allmikillar sérmenntunar úr háskóla eða tækniskóla er krafist. Ennfremur sérmenntað fólk, sem vinnur að endurþjálfun eða frumþjálfun fólks, sem orðið hefur fyrir líkams- og heilsutjóni." Fyrri hluti þessarar lýsingar á greinilega við um meinatækna. Meinatæknanám fer fram í Tækniskóla Íslands og er tvö ár, bæði bóklegt nám og verklegt, sem fer fram á rannsóknarstofum. Stúdentspróf er inntökuskilyrði. Eins og áður var rakið er starfið rannsóknarstarf og bæði er það sjálfstætt og breytilegt. 14. launaflokkur er nú 180.628 kr. á mán. í grunnlaun. Meinatæknafélag Íslands hefur sett fram sérkröfur um þetta mál fyrir tvenna síðustu samninga, en því hefur í engu verið sinnt. Því má nú búast við fjöldauppsögnum meinatækna til að knýja á um a.m.k. 2. flokka hækkun þe. alm. meinatæknir verði í 14. launaflokki.

Þessar kröfur meinatækna um leiðréttingu á kjörum sínum eru fullkomlega eðlilegar og sanngjarnar. En eins og svo oft áður sýnir það sig nú, að ef verja á kjörin þá þarf baráttu til. Þannig eru aðgerðir meinatækna; gæsluvaktastræk og fjöldauppsagnir sjálfsagt svar við óbilgirni og kjaraskerðingum ríkisvaldsins.

## Hvað er stjórnmálaflokkur?

Samið hefur verið á alþingi frumvarp um réttindi og skyldur stjórnmálaflokka. Nefnd allra flokka er þar að verki.

Blm. Stb. lagði leið sína niður á þing til að fá frumvarpið en það var þá ókomið úr prentun. Grein þessi byggist því að mestu á umsögnum annarra um frumvarpið.

Það fyrsta sem athygli vekur er að nefndin var stofnuð í maí 1976 þannig að þingmennirnir hafa haft tæp tvö ár til að unga út frumvarpinu.

Í frumvarpinu er stjórnmálaflokkur skilgreindur, þ.e.: "Samtök ísl. ríkisborgara sem bjóða fram í a.m.k. fjórum kjördæmum við alþingiskosningar og uppfylla að öðru leyti þau skilyrði og lýðræðiskröfur sem í lögum þessum greinir"

Skilyrðin og lýðræðiskröfurnar eru að tilkynna sig og sína til dómsmálaráðuneytisins, gefa upplýsingar um stjórnendur og stefnuskrá. Auk þess eiga nýir stjórnmálaflokkar (þ.e. þeir sem ekki nú þegar fullnægja skilgreiningu frumvarpsins) að leggja fram 1000 manna stuðningsmannslista.

Nú kynnu menn að spyrja hver sé ástæða þessarar lagasetningar. Ellert Schram sagði í sjónvarpi á föstudag að ástæðan væri sú að hafa þyrfti eftirlit með flokkunum sem réðu öllu í þjóðfélaginu. Stuttu síðar sagði flokksbróðir hans, Matthías Bjarnason, að hann sem ráðherra réði engu, bankastjórarnir réðu öllu.

Það er augljóst að þetta frumvarp mun skerða lýðræðið margrómaða einkum ef farið verður út á þá braut að meina þeim flokkum sem ekki uppfylla skilyrðin að bjóða fram. Að vísu bendir 7. grein frumvarpsins fremur í þá átt að hér sé verið að tryggja að einungis núverandi þingflokkar fái ríkisstyrk og gera öðrum erfitt fyrir.

framh. á síðu 5.

## Innrás Ísraela í Líbanon

Eins og komið hefur fram í fréttum hafa Ísraelsmenn nú hafið innrás í Suður-Líbanon. Fréttaskýrendur á Íslandi og annars staðar á Vesturlöndum hafa óspart látið í það skína að höfuðorsök innrásarinnar sé árás palestínskra skæruliða inn í Ísrael nú nýverið. Sagt er að nú sé mælirinn fullur og Ísraelsmönnum þyki tími til kominn að hreinsa duglega til í Suður-Líbanon og ganga í eitt skipti fyrir öll milli bols og höfuðs á "hermdarverkasveitum" Palestínumanna. Minna hefur hins vegar borið á að fréttaskýrendur taki upp í fréttum sínum málstað palestínsku þjóðarinnar, skýri fólki frá hvaða augum Palestínumenn líta ástandið í Mið-Austurlöndum og þá atburði sem þar hafa átt sér stað síðustu misseri og síðustu daga.




Þegar Daoud Kaluti aðalfulltrúi PLO á Norðurlöndum var staddur hér á landi á síðasta vori skýrði hann frá því að palestínumenn hefðu með höndum upplýsingar er sönnuðu að Ísraelsmenn undirbyggju nýtt stríð í löndunum fyrir botni Miðjarðarhafs, sem hefjast myndi með innrás þeirra í Suður-Líbanon. Kaluti benti einnig á að Ísraelsmenn myndu sjálfsagt finna sér einhverja tylliástæða fyrir innrásinni, þar sem minnst yrði á nauðsyn þess að ganga að hryðjuverkamönnunum dauðum.

Til þess að varpa nokkru ljósi á viðhorf Palestínumanna verða hér tilfærðar nokkrar tilvitnanir í ritstjóragrein í janúarhefti upplýsingarits PLO "Palestine" sem gefið er út bæði á ensku og frönsku. Greinin er rituð í tilefni þrettán ára afmælis palestínsku byltingarinnar.

"Palestínska byltingin hefur nú staðið í þrettán ár; þrettán ár harðrar baráttu og fórna, en einnig sigra og árangurs. Á fjórtánda ári palestínsku byltingarinnar er hún jafn ákveðin og alltaf áður að halda áfram uns meginmarkmiði hennar er náð, sönnum og varanlegum friði í Mið-Austurlöndum."

"Í Líbanon hefur sambandið við hina þjóðlegu hreyfingu Líbanon verið styrkt.

Framhald á síðu 5



Kjararán ríkisstjórnarinnar minnkaði laun verkafólks sem nam tveimur tímum á viku. Hafnarverkamenn í Reykjavík sátu þessa tvo tíma í síðustu viku í mótmælaskyni. Myndin er frá kaffiskála Eimskips.

## Hverra er efnahagsvandinn ?

Undanfarna áratugi hefur barátta verkalýðshreyfingarinnar einkennst af síaukinni miðstýringu. Þetta lýsir sér í því að ákvörðunartaka um aðgerðir og aðferðir hefur í síauknum mæli færst í hendur örfárra forystumanna og slíkt hlýtur óhjákvæmilega að vera á kostnað þess að almennir félagsmenn séu virkir gerendur baráttunnar.

Samhliða þessari síauknu miðstýringu hefur pólitísk afstaða verkalýðsforingjanna snúist á þá leið, að nú eru þeir orðnir ábyrgir bjargvættar auðvaldsþjóðfélagsins.

Það sem er þessum ákveðnu verkalýðsforingjum mestur þyrnir í augum, er hve "þjóðarbú auðjöfranna" er illa rekið. Til þess að rétta við þennan "hallarekstur" auðjöfranna koma þessir forystumenn verkalýðshreyfingarinnar með ótal tillögur. Sumar þessara tillagna eru nothæfar fyrir auðstéttina og þær not-

Framhald á síðu 3

LEIÐARI

# Gegn allri heimsvaldastefnu

Belgradfundurinn um öryggismál Evrópu endaði í algeru ósætti og upplausn. Risaveldin tvö, sem ásælast hernaðarleg og pólitísk undirtök í álfunni fóru í hár saman og sú hátíðlega eining sem fundurinn átti að skapa fór algerlega út um þúfur.
Hverjar eru orsakirnar fyrir deilunum sem liggja að baki upplausn Belgradfundarins? Þær eru raunverulega þær sömu og urðu til þess að fundirnir um öryggismál Evrópu voru kallaðir saman. Nefnilega átök Bandaríkjanna og Sovétríkjanna um yfirráðin í Evrópu. Sovétríkin hafa stóraukið hernaðarmátt sinn í Evrópu á seinni árum og ógna sjálfstæði og tilvist margra Evrópuríkja. Útþenslustefna þeirra og árásargirni verður ekki dulin með friðartali og afvopnunarummælum. Því Sovétríkin vígbúast af kappi og gerast æ aðgangsharðari gagnvart nágrannaríkjum sínum. Ummæli L. Brésneffs um of mikinn hernaðarmátt Noregs í ræðu sem hann hélt í Helsinki í tilefni 60 ára afmælis sjálfstæðis Finnlands, sýna berlega þessi einkenni. Sannleikurinn er sá að Sovétríkin hafa ekki aðeins aukið hernaðarmátt sinn í A-Evrópu, heldur og umsvif sín í Norðurhöfum, í Eystrasalti og á Miðjarðarhafinu.
Á hinn bóginn hafa Bandaríkin gefið eftir gagnvart útþenslustefnu Sovétríkjanna og dregið vígstöðvar sínar til baka. Það þýðir þó engan veginn að Bandarísku heimsvaldasinnarnir séu horfnir frá ofríki og yfirgangi sínum. Orð J. Carters bandaríkjaforseta um að kommúnistar og sósíalistar hlytu enga náð fyrir augum Bandaríkjanna, ef þeir settust í stjórnarstóla Frakklands, sýna vel að Bandaríkin eru fullkomlega meðvituð um hvar þau vilja draga mörkin fyrir yfirráðasvæði sínu. Þau telja sig hafa hag að því í dag að draga klærnar inn og leika hlutverk "frelsarans úr vestri", en þeir halda vígstöðvum sínum samt sem áður.

Ísland hefur tekið þátt í öryggisfundunum og hérlendir stjórnmálamenn úr flestum flokkum hafa látið glepjast af friðartali risaveldanna og lýðskruminu um öryggi Evrópu undir hernaðarlegri umsjá risaveldanna. Sannleikurinn er þó sá, að öryggi Íslands er ógnað úr vestri og austri. Bandaríkin munu ófús að gefa eftir aðstöðu sína á Íslandi og hvenær sem þeim þóknast og hagsmunir þeirra krefjast þess, verður sjálfsákvörðunarrétti Íslensku þjóðarinnar fórnað á stalli "vestræns frelsis".
Það er því nauðsynlegt að skapa sem víðtækasta samstöðu gegn veru Íslands í NATO og nærveru bandaríska hersins á landinu. Um þetta atriði getur engum blandast hugur. Og hitt verður æ fleirum ljóst, að sjálfstæði og sjálfsákvörðunarrétti íslensku þjóðarinnar er ekki borgið þótt bandarískur her yrði á brott úr landinu. Ógnir nýrrar styrjaldar, þar sem útþenslustefna Sovétríkjanna og hrörnun Bandaríkjanna sem ægivalds hins vestræna heims munu verða aðalöflin, vofir yfir.
Samfylking gegn heimsvaldastefnunni má aldrei einskorðast við andstöðu gegn bandarískri heimsvaldastefnu. Slík samfylking hefur ekki það verkefni eitt, að hrinda af þjóðinni hernaðarlegri íhlutun og pólitískri ásælni Bandarísku heimsvaldastefnunnar. Hún hefur það verkefni, að slá skjaldborg um sjálfstæði og tilverurétt Íslands sem fullvalda ríkis.
Og þá gildir einu hvaðan því er ógnað, hvort heimsvaldastefnan skrýðir sig með nafni "vestræns frelsis" eða sovésks "sósíalisma" - markmiðið verður að vera skýrt og samfylkingin reiðubúin til harðrar og langvinnrar baráttu.
Þess vegna verða andheimsvaldasinnar að búast til baráttu gegn allri heimsvaldastefnu.

21. 3. 1978

## Áskrifendur athugið!

Lausasala kr 80.-

| | | |
|---|---|---|
| Heilt ár eða 48 tölublöð | Baráttuáskrift | kr. 5.500.- |
| " " " " " | Venjuleg áskrift | kr. 3.500.- |
| Hálft ár eða 24 tölublöð | " " | kr. 2.000.- |
| Erlendis, sent vikulega, 48 tbl. | | kr. 7.000.- |
| Erlendis sent hálfsmánaðarlega (2 blöð í einu) | | kr. 5.500.- |
| Til öryrkja og aldraðra, heilt ár | | kr. 5000.- |

# Frá Íslendingafélaginu í Uppsölum

Aðalfundur Íslendingafélagsins í Uppsölum haldin 25. febr. 1978 og almennur félagsfundur Uppsaladeildar SÍNE haldin 24. febr. 1978, fordæmdi harðlega þær svívirðilegu árásir atvinnurekenda og ríkisvalds þeirra á verkalýð og vinnandi alþýðu landsins. Með gengisfellingum og lagasmíð sem gengur þvert á alla gerða samninga ætla atvinnurekendur með ríkisvald sitt í fararbroddi að velta byrðum kreppunnar yfir á herðar vinnandi alþýðu. Nú reynir verulega á styrk og baráttuvilja verkalýðs og annars launafólks til að verja þann áfangasigur sem unninn var við síðustusamninga og sem síðan þá hefur verið þyrnir í augum atvinnurekenda.

Fundirnir lýsa yfir fullum stuðningi við réttlátar kröfur verkafólks um fullar verðbætur á laun og að staðið verði við gerða samninga.

Fundirnir fordæma einnig harðlega þær hörkulegu árásir, sem námsmenn hafa orðið fyrir á síðustu mánuðum. Eins og málum er nú komið valda frekari skerðingar vegna gengisfellingar íslensku krónunnar því að þeir sem koma úr verkalýðsstétt og stunda langskólanám detta úr námi. Launa- og námsfólk verður því að sýna einarðlega samstöðu í verki og stöðva þegar í upphafi öll árásaráform atvinnurekenda og ríkisstjórnar þeirra.

- Burt með afskipti ríkisvaldsins af gerðum samningum.
- Gegn skerðingu á vísitölutryggingu launa.
- Burt með gengissvindlið á námsfólki erlendis - námslán reiknist í erlendum gjaldeyri.
- Engar sultarólar á launafólk og námsmenn.
- Ekkert leynimakk - opnar samningaviðræður.
- Gegn ríkisstjórnum borgaranna.

Sent: Fjölmiðlum á Íslandi, SÍNE deildum, stjórn SÍNE á Íslandi

F.h. trúnaðarmannaráðs:
Ólafur H. Sigurjónsson
F.h. Íslendingafélagsins:
Eyjólfur Pétur Hafstein

# Námslán skert

Ríkisvaldið hefur nú ákveðið að lækka námslán til námsmanna erlendis um 4% frá því sem verið hefði ef gengislækkun hefði ekki komið til. Þetta gerir ríkisvaldið með því að bæta námsmönnum erlendis gengisfellinguna aðeins um 75%. Námsmenn erlendis fá því 4% lægra lán - miðað við 85% framfærslukostnaðar - en námsmenn á Íslandi. Þetta kemur til viðbótar þeirri kjararýrnun sem námsmenn erlendis hafa mátt þola vegna gengissigsins frá áramótum. Það hefur alls verið um og yfir 20%, að gengisfellingunni meðtalinni.

Lækkun gengisins mun einnig bitna á námsmönnum á Íslandi, sem og alþýðu allri, þar eð verðlag mun stórhækka á komandi mánuðum. Í komandi baráttu gegn kjaraskerðingum ríkisvaldsins verður öll alþýða að standa saman, svo unnt verði að hrinda hinum svívirðilegum árásum auðvaldsins. Samstaða námsmanna og verkafólks er því mikilvæg. Þorri námsmanna styður baráttu verkalýðs af fyllstu einlægni, þó oft séu heldur lítil tök á að sýna þann stuðning í verki. Í dag er mikil nauðsyn að námsmenn sameinist til baráttu gegn árásum ríkisvaldsins á kjörin, og þörf er samstöðu og stuðnings verkalýðs og allrar vinnandi alþýðu.

NÁMSMENN HEIMA OG ERLENDIS - STÖNDUM SAMAN.
SAMSTAÐA NÁMSMENN - VERKAFÓLK.
TIL BARÁTTU GEGN RÍKISVALDI AUÐVALDSINS.

Einingarsamtök kommúnista m-l/skólunum.

# Samtök leigjenda í uppsiglingu

Laugardaginn 18. mars var haldinn fundur með nokkrum aðilum sem áhuga hafa á hagsmunum leigjenda hér á landi.

Réttleysi leigjenda er nær algert gagnvart húseigendum í dag og hefur það farið vaxandi allt frá 1917 þegar sett voru lög um samskipti leigjenda og húseigenda. Þau litlu réttindi sem þessi lög veittu leigjendum voru endanlega numin úr gildi 1956 og þá höfðu nokkrar breytingar húseigendum í hag verið gerðar á lögunum.

Í dag er ekki reynt á neinn hátt að leyna hvoru megin yfirvöldin standa í þessu máli. Til dæmis er húsaleigan ekki frádráttarbær til skatts en ákveðin upphæð ákveðin af skattyfirvöldum notuð fyrir alla leigjendur og þannig komið í veg fyrir að nokkrum leigjanda detti í hug að gefa upp rétta leigu ef húseigandinn færi fram á að lægri tala væri gefin upp.

Í dag eru engin samtök leigjenda til en húseigendur hafa samtök. Þessi samtök hafa hnoðað saman húsaleigu samningi sem er oftast notaður í dag. Í honum er aðeins hugsað um hagsmuni húseigandans og reynt að hafa þar allar mögulegar og ómögulegar óskir hans. Sem dæmi má taka eftirfarandi úr samningnum: "Þurfi að gera við húsnæðið á leigutímabilinu, skal leigutaka skylt að rýma svo til, að viðgerð verði við komið, og á hann enga kröfu til leigulækkunar eða bóta fyrir. Sömuleiðis skal leigutaka skylt að leyfa leigusala að sýna húsið ákveðinn tíma á dag, þeim er kunna að vilja taka það á leigu, eða vilja kaupa húsið." (Það sem er undirstrikað hér að ofan er skáletrað í samningnum). Þarf frekari vitnana við?

Ákveðið var þessum fundi að stofnfundur samtaka leigjenda yrði haldinn sem fyrst.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

- Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud 15-18,30
- Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Skarðshlíð 30.
- Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.
- Hornafjörður: Skúli Waldorff. Silfurbraut 2.
- Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum 38.
- Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi.
- Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c, Keflavík.
- Vestmannaeyjar: Helga Jónsdóttir Brekastíg 24 b, sími 98-1273
- Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v.444 Börglumvej 2, 8240 Risskov.
- Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson. Kämnärsvägen 11 N: 220. 22246 LUND

# Fundur SHA í Keflavík

Laugardaginn 18. mars síðastliðinn stóðu herstöðvaandstæðingar á Suðurnesjum fyrir baráttu- og skemmtifundi í Félagsbíói í Keflavík. Húsfyllir var á fundinum sem stóð í 3 klst. Þrátt fyrir langa setu sáust engin þreytumerki á fundargestum að dagskrá lokinni, enda var mjög vel að skemmtuninni staðið og dagskráin vönduð í hvívetna.

Helstu dagskráratriði voru þessi: Ræða Jóns Böðvarssonar, skýrsla Ágústar Valfells um afleiðingar kjarnorkuárásar á Keflavíkurflugvöll, og ræða Jóhanns Geirdals um hvernig atvinnumál Suðurnesjabúa tengjast hersetunni. Af skemmtiatriðum er helst að nefna "beina útsendingu úr sjónvarpssal" þar sem fréttamaður (Arnar Jónsson) ræddi við Hallgeir (Gísli Rúnar) landráðamann og húsmóðurívesturbænum með meiru. Auk þess tróð Hjördís Bergs upp og söng nokkur baráttuljóð og Kór Alþýðumenningar söng undir lokin. Síðasta atriðið var svo fjöldasöngur þar sem kröftuglega var tekið undir í "Ísland úr NATO herinn á brott".

Það verður að segjast að stemningin á fundinum hafi verið mjög góð og þakka ber herstöðvaandstæðingum á Suðurnesjum frábæra skemmtun. Væri ekki úr vegi að slíkir fundir yrðu haldnir víðs vegar um landið.

# Frá Höfn

Ólöglegt verkfall ASÍ og BSRB leiddi víða til sjálfstæðrar skipulagningar verkalýðsins. Á Hornafirði var haldinn fundur félaga í ASÍ og BSRB. Á fundinn mætti hagfræðingur BSRB og skýrði út kjararánslögin. Fundurinn valdi samstarfsnefnd til að skýra út kjararánslögin og hvetja fólk til að leggja niður vinnu. Nefndin gaf út dreifirit sem dreift var í öll hús á staðnum.

Félagar úr verkalýðsfélögunum fóru á vinnustaðina og hvöttu til samstöðu. Á meðan á verkfallinu stóð, var haft opið hús og komu menn þar og ræddu málin yfir kaffibolla. Samstarfsnefndin lítur á ólöglega verkfallið sem lið í lengri baráttu og hefur því ekki slitið starfi sínu. Hún gaf út fyrsta tölublaðið af 'Verkalýðsfréttum' að verkfallinu loknu.

Fréttaritari.

VERKALÝÐS FRÉTTIR

1. tbl. mars 1978

"Verkalýðsfréttir" eru gefnar út af baráttunefnd verkafólks á Höfn Hornafirði. Baráttunefndin sem er skipuð fólki úr Alþýðusambandi Íslands og Bandalagi starfsmanna ríkis og bæja, myndaðist í tveggja daga verkfallinu. Hún er stofnuð í þeim tilgangi að verða liður í langvinnri baráttu.

# Verkfallsbrot EIKm-l

Þegar tveggja daga allsherjarverkfallið stóð yfir, hamaðist Verkalýðsblaðið gegn forystu ASÍ og BSRB fyrir svik við hagsmuni alþýðunnar. Var þess krafist háróma, að til harðari aðgerða skyldi gripið. Þetta getum við verið fyllilega sammála EIKm-l um, og sömuleiðis gagnrýni þeirra á ólýðræðislegar aðferðir forystunnar. En kommúnistar mega ekki láta sitja við orðin tóm. Það verður því að segja að hávaðinn í kröfum eikaranna um harðari aðgerðir, kemur til lítils gagns þegar félagar þessara samtaka mættu til vinnu í verkfallinu. Þetta gerðist a.m.k. á Kópavogshælinu, þar sem eikarar unnu og báru því við, að þar sem ekki hefði verið algjör samstaða um aðgerðir, þá væru þeir sem færu í verkfall að koma sínum störfum upp á vinnufélagana. Röksemdir þessa fólks eru svo sem ekki nýjar af nálinni, þær hafa verið á munni alls kyns íhaldsmanna allt frá upphafi verkalýðsbaráttunnar. Nú verður enginn hissa þegar svona rök koma frá svartasta íhaldi, sem þar að auki er andstætt baráttunni yfirleitt. En þegar yfirlýstir foringjar alþýðunnar og samtök sem telja baráttu fjöldans sér einum til tekna, gagnrýna vinnufélaga sína fyrir að gera verkfall, þá er líklega einhver maðkur í mysunni.

Í áróðri sínum vegna verkfallsins, lögðu EIKm-l alla áherslu á hve vinnubrögð forystunnar voru ólýðræðisleg og það svo að tilefni verkfallsins - lagasetningin - féll alveg í skuggann. Þegar þannig allur áróðurinn snerist um að verkafólk ætti engan þátt í ákvörðun verkfallsins, heldur skikkaði forystan það til aðgerða, þá var ekki mikil von til að vinnufélagarnir væru fúsir til verkfalls. Auðvitað bar að leggja aðal áhersluna á að verið væri að rísa til baráttu gegn því að ríkisvaldið beitti lagasetningu til þess að gera alla kjarasamninga að engu og skerða kjör verkalýðsins um leið. Með aðgerðunum átti að sýna ríkisvaldinu fram á að verkafólk léti ekki fara þannig með sig. Vissulega ber að gagnrýna forystu verkalýðsfélaganna hart fyrir það hvernig hún stóð að aðgerðunum og skipuleggja þá fólkið á vinnustöðunum til baráttu. En að flýja af hólmi eftir að út í baráttuna er komið, á þeim forsendum að ekki sé rétt að málunum staðið, það eru ekki vinnubrögð kommúnista.



Elísabet Bjarnadóttir, "baráttukona" sem vann í verkfallinu.

EIKm-l hælast um yfir réttri stefnu og heimta "harðari aðgerðir" en þegar til baráttunnar kemur, gerast félagar þeirra verkfallsbrjótar. Ef EIKm-l geta ekki einu sinni tekið þátt í tveggja daga verkfalli, hvernig ætli þau hagi sér þá ef til harðari og langvarandi baráttu kæmi.

HVERRA ER EFNAHAGSVANDINN

Framhald af forsíðu

færir hún sér en aðrar sem ekki koma henni að gagni enda í ruslakörfunni.

Verkalýðsforingjarnir eru svo djúpt sokknir í stéttasamvinnustefnunni að þeir sitja alla daga með sveittan skallann við að upphugsa aðferðir til að "betrumbæta" auðvaldsþjóðfélagið í stað þess að vinna að því að afnema það.

Hvaða gagn hefur verkalýðurinn t.d. af því að forystumenn verkalýðshreyfingarinnar eyði vikum og mánuðum í að "finna lausn" á verðbólguvanda þeim sem auðstéttin hefur skapað til að auka sinn gróða? Þennan vanda hefur verkalýðurinn ekki átt neinn þátt í að mynda nema síður sé og þess vegna er það ekki hans að bera byrðarnar af honum. Verðbólguvandinn er hagstjórnartæki auðvaldsins og hann verður ekki leystur í samvinnu við auðvaldið.

Þvert á móti. Hann verður einungis leystur í baráttu gegn því og með afnámi þess.

Verkalýðshreyfingin verður að varast að láta auðvaldið draga sig inn á sinn baráttugrundvöll. Efnahagsvandamál auðvaldsþjóðfélagsins er þeirra sem með efnahagsmálin fara í þjóðfélaginu. Og þar á verkalýðurinn engan þátt. Efnahagsvandamál verkalýðsins sem ekkert hefur til að bíta og brenna nema sárustu nauðsynjar er afkoma hans. Auðjöfrarnir eiga atvinnufyrirtækin, bankakerfið og önnur slík verðmæti. Hvernig þeir reka þetta "auðvaldsþjóðarbú" sitt er þeirra mál að ráða fram úr. Verkalýðsins er að sigrast á auðstéttinni og byggja upp sinn efnahag í sínu sósíalíska þjóðfélagi.

# Hver eitraði appelsínurnar?

Í tilefni frétta um eitraðar appelsínur sem borist hafa frá Ísrael vill Stéttabaráttan koma á framfæri eftirfarandi fréttatilkynningu frá Palestínsku fréttastofunni WAFA, sem aðrir fjölmiðlar er ritað hafa um málið hafa ekki séð ástæðu til að birta.

"Sem svari við tilkynningum fréttastofnanna um að kvikasilfur hafi fundist í appelsínum innfluttum frá Ísrael, og að samtök sem kalli sig "Arabíska byltingarherinn - Palestínu skæruliða" hafi lýst ábyrgð sinni á verknaðinum, vilja ábyrgir Palestínskir aðilar gefa eftirfarandi yfirlýsingu:-"

"Það er vel þekkt staðreynd að engin slík samtök sem "Arabíski byltingarherinn - Palestínuskæruliðar" eru til hvorki innan né utan hinnar herteknu Palestínu. Þar að auki eru aðgerðir eins og þær sem kenndar eru þessum uppdiktuðu samtökum hrópandi mótsögn við markmið PLO og við aðferðir þeirra í vopnaðri og pólitískri baráttu".

"Hér er aðeins um að ræða sóðalegar tilraunir til að sverta palestínsku þjóðina og PLO, sem hefur tekist að ná stuðningi og trúnaði almenningsálitsins í heiminum - þar á meðal stórs hluta almenningsálitsins í Evrópu - gegnum margra ára þrotlausa baráttu. Slíkum áróðri er ætlað að snúa almenningsálitinu í heiminum gegn palestínsku þjóðinni og málstað hennar!

"Palestínska byltingin hefur undir höndum upplýsingar er varða aðgerðir fjölda leyniþjónusta, sem vinna að því að sverta PLO og gefa ranga mynd og koma óorði á palestínsku þjóðina með slíkum sóða aðferðum og við útilokum ekki þann möguleika að ofangreindar aðgerðir falli inn í ramma þessarar starfsemi".

LYGAÁRÓÐUR GEGN KÍNA

Framhald af baksíðu

Fleiri dæmi um óáreiðanlegan fréttaflutning frá Kína mætti tína til og færa fram en engin ástæða er til að elta allar þær lygar sem birtast í fjölmiðlum nær daglega. Það sem er aftur á móti slæmt við allan þennan lygaáróður er að hann síast inn í fólk og fælir það frá stuðningi við alþýðu Kína, sem stendur fremst í baráttunni fyrir friði og frelsi til handa alþýðunni í heiminum.

Við viljum því vara fólk við að taka allt trúanlegt sem sagt er í fjölmiðlum um Kína. Hafið heldur samband við Kínversk-íslenska menningarfélagið, Hamrahlíð 17 og aflið ykkur ókeypis áskriftar af fréttabréfum með reglulegum fréttum frá Alþýðulýðveldinu Kína.

Glámur.

# Kastró í klípu



Kastró í klípu. Hér er hann með A. Neto, forseta Angóla.

Þátttaka kúbanskra hersveita í stríðinu í afríska horninu, hefur valdið mikilli ólgu á Kúbu. Kúbanskar hersveitir hafa þjónað sem framvörður sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar í útþenslupólitík hennar í Afríku. Þáttur kúbanskra hersveita í Angóla er kunnur og talið er að meira en þrjátíu þúsund hermenn frá Kúbu séu staðsettir í ýmsum ríkjum Afríku. Kúbanskir hermenn sem fellu í styrjöldinni í Eþíópíu voru áður grafnir heima á Kúbu, en vegna þess að kúbönsk alþýða sneri útförunum upp í mótmæli gegn þátttöku Kúbu í styrjöldinni, hefur kúbanska stjórnin nú bannað greftrun hermannanna á kúbanskri grund. Sérstök fangelsi hafa risið í Havanna til þess að einangra unglinga sem neita að fara í "sjálfboðaliðasveitirnar" sem fara eiga til Afríku. Þeir sem þangað fara fá ýms fríðindi, svo sem afslátt af sköttum, loforð um húsnæði osfrv. Þeir sem neita að fara eiga hins vegar á hættu að missa atvinnu og húsnæði. Kúbönsk alþýða mun ekki þegar til lengdar lætur gera sér að góðu að þjóna heimsvaldahagsmunum Sovétríkjanna. Fyrr eða síðar mun hún rísa gegn fyrirráðum sósíalheimsvaldasinnanna í heimalandi sínu.

Framhald á bls. 4



# AÐALFUNDUR KÍM

Aðalfundur Kínversk-íslenska Menningarfélagsins var haldinn að Hótel Esju s.l. mánudag. Auk fundarmanna komu góðir gestir úr sendiráði Kína á Íslandi í boði félagsins. Formaður KÍM, Arnþór Helgason flutti skýrslu um starf félagsins á síðasta starfsári. Hann skýrði m.a. frá því, að væntanlegir væru til landsins tíbetskur söngvarar og dansarar, en svo skemmtilega vill til, að þeir munu sennilega frumsýna listir sínar hérlendis á 25 ára afmælisdegi félagsins.

Fráfarandi stjórn félagsins var endurkjörin, en hana skipa Arnþór Helgason formaður, Jakob Benediktsson varaformaður, Anna Einarsdóttir, Ólafur Elímundarson og Kristján Jónsson. Starfsemi félagsins hefur verið mjög gróskumikil og útgáfa málgagns félagsins, sem heitir "Austrið er rautt" hefur stóraukist.

NÁMSFUNDIR

Kommúnistaflokkurinn gengst fyrir námsfundum, sem eru opnir þeim sem áhuga hafa fyrir verkalýðsmálum. Menn eru eindregið hvattir til að taka þátt í þeim. Námsefnin eru:

1. Almennt um sögu og markmið verkalýðsstéttarinnar.
2. Umræða um heimspeki og hugmyndafræði.
3. Efnahagsmál og hagfræði.
4. Ríkisvaldið, stofnanir þess kosningar og valdkerfi, ríkisvald sósíalismans og umræða um verkalýðsríkið.
5. Verkalýðsflokkurinn og önnur samtök alþýðunnar.
6. Starf og stefna marxista-lenínista.

RAUÐUR VETTVANGUR frá lesendum RAUÐUR VETTVANGUR frá lesendum

# Verslunareigandinn græðir á vörusvikum

Eins og þú hefur eflaust tekið eftir, þá eru íslensk lög algerlega sniðin fyrir auðvaldið, enda eru lögin samin og sett af því. Réttur almennings er harla bágborinn. Verðir þú fyrir því óláni, að auðvaldssvín steli meiru af þér en venja er til í okkar auðvaldsþjóðfélagi, er réttur þinn og staða gagnvart þjófnaðinum nánast enginn. Ef þú ætlar þér að fá mál þitt leiðrétt, kostar það þig venjulega mikið meira en ef þú gerir ekkert í málinu. Hagkerfi auðvaldsins sér um að verðgildi krónunnar rýrnar dag hvern, þannig að þó þér takist að fá aftur sömu krónutölu og stolið var af þér, þá er hún ekki svipur hjá sjón eftir allan þann tíma sem "leiðréttingin" hefur tekið. Og sá tími er venjulega það mikill að sé hann reiknaður í peningum kemur í ljós, að fjárhagslega hefði betur borgað sig að selja fyrstadagsumslög niðri í bæ. En aðuvaldssvínin taka enga áhættu þó þau steli eins miklu og þau geta. Þau tapa engu þó þú neitir að viðurkenna þjófnað þeirra. Þau vita líka sem er, að alþýða manna hefur ekki það mikinn tíma aflögu, að hún geti verið að snúast í kring um þunglamalegt auðvaldskerfi.

Útsalan í Plötuportinu

Fyrir nokkrum dögum stóð yfir útsala í versluninni Plötuportið Laugavegi 17. Á þessa útsölu gerðu m.a. ung hjón sér ferð. Sú ferð átti eftir að upplýsa þau um bágborinn rétt neytandans. Það fyrsta, en ekki það síðasta, sem kom þeim á óvart í þessari útsöluferð, var að á útsölunni var m.a. til sölu albúmið Fly með hinni ágætu eiginkonu bítilsins John Lennons, Yoko Ono. Tónlistin á Fly er þungt framúrstefnu (progressive) rokk og textarnir eru í samræmi við róttækar vinstri skoðanir listakonunnar. Auk þess er Fly albúm sem inniheldur tvær plötur. Í auðvaldsþjóðfélagi eins og okkar, eru albúm eins og Fly ekki vinsæl. Því urðu ungu hjónin ánægð yfir því, að fá tækifæri til að kaupa þetta ágæta listaverk á "aðeins" kr 1950 með söluskatti og ýmsum öðrum sköttum inniföldum. Reyndar þótti þeim svolítið undarlegt af verslunarstjóra Plötuportsins að taka upp á þeim "ósið" að panta svo mörg eintök af Fly, að hann þyrfti að selja þau á útsölu. Hvernig sem á þessum "mistökum" stóð, þá flýttu þau sér að kaupa eitt eintak áður en það myndi hækka í verði. En þegar njóta átti listaverksins heima, kom í ljós að ekki var allt eins og það átti að vera. Báðar plöturnar í albúminu voru stórgallaðar. Daginn eftir gerðu ungu hjónin sér aðra ferð í Plötuportið, til að skila Fly.

Furðuleg forsenda

En telpan sem var við afgreiðslu neitaði að taka við albúminu aftur á þeirri furðulegu forsendu, að í Plötuportinu sé aldrei tekið aftur við gölluðum vörum, ef þeim hefði verið prangað inn á viðskiptavininn á útsölu. Neitaði telpan síðan að ræða þetta mál frekar, en benti á að ef ekki væru allir ánægðir með þetta þá bæri að snúa sér til eigganda Plötuportsins, en hann væri bara ekki við fremur en fyrri daginn. Seint og síðar meir tókst hjónunum að ná tali af verslunarstjóranum. Hann hafði þá alveg sömu skoðun á málunum og telpan. Var honum þá bent á lög, sem kveða á um að bannað sé að selja gallaða vöru, nema kaupandinn viti um gallann áður en kaupin eiga sér stað. Sömu lög ná yfir útsölur og var honum bent á það líka. Kom þá upp lítill sólnes í honum sem sagði að þessi lög væru svo ósanngjörn, að það væri ekki hægt að fara eftir þeim. Útsölur væru einmitt svo voðalega heppilegar til að pranga út gölluðum vörum. Það myndi nefnilega enginn kaupa gallaða vöru ef hann vissi um gallana. Og þeir sem keyptu gallaðar vörur, gætu bara sjálfum sér um kent fyrir béaða óheppnina. Neitaði hann með öllu að til greina kæmi að hægt væri að skila Fly. Ekki vildu ungu hjónin gefast upp þrátt fyrir þetta svar, þó flestir hefðu e.t.v. gert það í þeirra sporum. Þau leituðu nú á náðir Neytendasamtakanna.

50 ára gömul kauplög.

Forsvarsmaður þeirra brást bæði vel og fljótt við og hringdi út um allan bæ. Talaði hann m.a. við nokkra aðstandendur Plötuportsins. Voru þeir hinir verstu viðureignar. Benti hann þeim m.a. á sömu lög og verslunarstjóranum hafði verið bent á og sagði þeim að þessum lögum yrði að fylgja, þó þau væru orðin 50 ára. Eftir rúmlega klukkutíma langt þóf, féllust aðstandendurnir á að taka við Fly aftur. En samkvæmt lögum auðvaldsins, þurftu þeir þó ekki að endurgreiða andvirði Fly í peningum Þess í stað var ungu hjónunum gefinn kostur á að velja á milli, hvort þau vildu taka út á andvirðið strax í Plötuportinu, eða fá innleggsnótu upp á 1950 krónur, til að láta verðbólguna éta upp á nokkrum dögum. Var því farin enn ein ferðin í Plötuportið til að skila Fly. Það er ekki hægt að segja að tekið hafi verið á móti þeim opnum örmum af afgreiðslubörnum fullum iðrunar yfir mistökum sínum. Börnin voru greinilega mjög óánægð með málalok fyrir hönd húsbænda sinna. Í samræmi við fyrri framkomu, var að sjálfsögðu ekki beðið um afsökun fyrir allt ónæðið, - ekki einu sinni til málamynda. Þegar hjónin voru að leita að einhverju sem þau gætu tekið út á Fly, sáu þau að ennþá voru til sölu nokkur gölluð Fly-albúm. Skárra væri það nú, ef verslunin hætti við að pranga út gölluðum plötum, þó að eitt eintak skilaði sér. Enda lauk málinu á þá leið, að ungu hjónin sátu uppi með tvær lélegar kasettur, sem þau hefðu aldrei keypt nema af því að þau urðu að taka eitthvað út á Fly. Lélegar kassettur eru betri en verðbólguhrjáð innleggsnóta. Ef tíminn sem fór í að fá málið "leiðrétt", væri reiknaður í peningum, kæmi í ljós að hjónin eyddu á milli 5 og 10 þúsund krónum í málið.

Niðurstöður

Það sem Plötuportið græddi á málinu var að sjálfsögðu það, að í þeim herbúðum tókst að pranga út tveim lélegum kassettum. Sem sagt: það var gróði af því að hafa til sölu gallaðar plötur. Það þarf ekki að taka fram að þessi sölumáti aðstandenda Plötuportsins er ekkert einsdæmi um að reynt sé að græða eins mikið og mögulegt er, með því að skýla sér bak við gömul lög, sem auðvaldið hefur sjálft sett og samið. Neytendasamtökin o.fl. hafa reynt að fá rétt neytandans aukinn. En það er við harðan andstæðing að etja þar sem bláu auðvaldssvínin eru. Þar er nefnilega auðurinn og völdin, svo að enn sem komið er, þá er þeirra mátturinn og dýrðin. Til samanburðar má geta þess að Neytendasamtökin eiga erfitt með að borga einum starfsmanni sem vinnur 3/4 úr starfi. Rétt neytandans verður að auka. Við eigum ekki að taka því þegjandi og hljóðalaust, að bláu svínin hagi sér eins og hin svínin á okkar kostnað. Jafnvel þó að við töpum fjárhagslega á því til að byrja með. Það gerir aðeins illt verra, að gefast upp og láta traðka á sér. Og sá tími kemur, að við gerum upp við bláu svínin á sanngjarnan hátt. Vertu með og gerðu þitt til að flýta fyrir uppgjörinu. Því fyrr því betra Þetta er mál sem má ekki vera að því að bíða eftir byltingunni.

Jens Kristján Guð..

## Spurningar lesandi verkamanns.

## Bertolt Brecht.

Hver byggði borgina Þebu með hliðunum sjö?
Í bókunum standa nöfn konunganna
Hafa konungarnir sálfir rogast með múrsteinana?
Og Babýlon sem hvað eftir annað var jöfnuð við jörðu-
Hver reisti hana jafnharðan á ný? Í hvaða
húsum
Hinnar gullnu borgar Límu átti verkafólkið heima?
Hvar eyddu múrararnir því kvöldi þegar lokið
var
við
Kínamúrinn? Í hinni miklu Róm
Eru margir sigurbogar. Hver reisti þá? Hverjum
Hrósuðu Sesararnir sigri yfir? Bjuggu allir
íbúar
Hinnar margrómuðu
Býsans
Í höllum ? Jafnvel í hinu sögufræga
Atlantis
Örguðu hinir drukknandi menn á þræla sína
þá nótt
Þegar sjórinn gleypti landið

Hinn ungi Alexander lagði undir sig Indland.
Hann einn ?
Sesar sigraði Galla.
Hafði hann ekki í það minnsta matsvein sér
til aðstoðar ?
Filippus Spánarkonungur grét þegar floti hans
Hafði beðið ósigur. Grétu engir fleiri ?
Friðrik II sigraði í Sjöárastríðinu. Hverjir
Sigruðu fleiri?

Sigur á hverri síðu.
Hver matreiddi sigurréttinn?
Eitt ofurmenni á hverjum áratug.
Hver borgaði brúsann?

Hve margar sagnir.
Hve margar spurningar.

(þýð. Arthur Björgvin.)

Framhald af baksíðu

# HVAÐ VILL STJÓRNMÁLAFLOKKURINN?

leyni, að menn verði fyrir áhrifum af skaðlegum áróðri, en slíkt getur gerst þar sem rit-og málfrelsi er fullkomið (bein tilvitnun). Þetta jafngildir því að segja "skerða þarf rit-og málfrelsi". Ef þetta eru ekki fasískar tilhneigingar þá er fasismi ekki til.

Og þá erum við komin að rúsínunni í pylsuendanum, nefnilega greininni hans Kristmundar Sörlasonar, varaformanns flokksins og forstjóra Stjörnustáls og Stálvers h/f. Greinina nefnir hann "Atvinnumál". Greinin fjallar hins vegar um það hve atvinnurekendur eiga bágt í dag að þurfa að borga verkamönnunum kaup. Hann segir að löngunin í líkamlegt erfiði valdi því að menn ráði sig í vinnu, Ætli það sé nú ekki frekar þörfin á húsaskjóli, fæði og klæði o.þ.h. sem því veldur. Þetta er aðeins lítið dæmi um pólitískar skoðanir þessa manns Sem dæmi um hvernig hann getur hagað sér er að einu sinni fengu vélskólanemar auglýsingu frá Stálver h/f í málgagn sitt, Skrúfuna. Þegar þeir komu að rukka fyrir auglýsinguna henti Kristmundur þeim á dyr. Að vísu fengu þeir peningana eftir nokkuð þóf en þetta sýnir hvers konar hugsanir fá aðgang í Stjórnmálaflokkinn.

Þegar Kristmundur tíundar í grein sinni hve fyrirtækin eigi bágt sundurliðar hann kostnað útseldrar klukkustundar og verður hún samanlagt kr. 1.855.00. Hann segir: "Nú getur hver maður séð eftir þessa upptalningu hversu björgulegt það er fyrir hinn almenna mann að gera kröfur á hendur fyrirtæki sem er skömmtuð svo naum álagning..." Það er best að bíða um stund lesendur góðir meðan þið eruð að ná ykkur eftir hláturkastið ...... Skyldi ekki margur verkamaðurinn hugsa núna eitthvað á þessa leið: "Ég fæ um 807.00 kr. á klst. Hvað skyldu hins vegar Kristmundar þessa lands fá fyrir klukkustundar unna vöru sem ég notaði vinnuafl mitt í að framleiða en þeir hirtu síðan í krafti eignar þeirra á framleiðslutækjunum?" Jú, Kristmundi "gleymist" nefnilega að nefna þá upphæð sem smiðjueigandinn selur vöruna á. Þannig verða átjánhundruðfimmtíuogfimm krónurnar fljótt borgaðar þegar hann er búinn að selja klukkustundarvöruna "sína", því að hann selur hana með hámarksgróða.

Við látum þá þessu spjalli um hugsjónir Stjórnmálaflokksins lokið og vonum að lesendur séu nú nokkru nær um fyrirbærið. Ef svo er ekki, þá er bara að líta í málgagnið þeirra; þar kynnumst við Hugsjónum þeirra manna sem að honum standa þannig eð eðli flokksins fer ekki á milli mála eftir þann lestur.

ÚR NATÓ
HERINN BÚRT

KASTRÓ Í KLÍPU.

Framhald af bls. 3

Framsækin alþýða um allan heim verður að taka undir kröfu Eritreumanna, Vestur-Sómala og alþýðu Eþíópíu að Sovétríkin og Kúba hætti afskiptum sínum af málefnum þeirra og verði á brott með innrásarlið sitt. Glæpaklíka Mengistu offursta, sem er ekkert annað en strengbrúða Sovétríkjanna stendur svo höllum fæti, að stjórn hennar myndi umsvifalaust hrynja, ef kúbönsku hersveitirnar og sovésku vopnasendingarnar og hernaðarráðgefarnir yrðu á brott. Það er krafa allra réttsýnna manna, að Kúba og Sovétríkin komi sér burt úr Afríska horninu.

ATH!
Nýi opnunartími
bókabúðarinnar
Rauðu Stjörnunnar
er 15.30-18.30 daglega.



# Lærdómsrík sýning

**Dufþakur**

4. bekkur S í Nemendaleikhúsinu hefur boðið uppá athyglisverða sýningu í Lindarbæ undanfarna daga. Hér er um að ræða leikritið Fansjen (Umbyltingin), sem breski leikritahöfundurinn David Hare gerði eftir frásögn Bandaríkjamannsins Williams Hintons, en sá síðarnefndi dvaldist í Kína um og eftir byltinguna 1949. Þeir atburðir, sem frá greinir í leikritinu, eru byggðir á persónulegri reynslu Hintons og áttu sér stað í bændaþorpinu Tjangtsjúang á árunum 1945-49.

Fansjen lýsir því tímabili í sögu kínversku byltingarinnar, þegar bændaalþýðan er að lyfta af sér oki lénsskipulagsins og byrja nýtt líf þar sem eignunum er skipt réttlátlega milli fólksins. Þorpið Tjangtsjúang má því ekki skoða sem einangrað fyrirbrigði heldur voru svipaðir atburðir að gerast víðs vegar um landið.

Leikrit þetta er afar nærfærin lýsing á þeim vandamálum, sem upp koma við framkvæmd jarðnæðisumbótanna á þessum tíma og hvernig þau vandamál eru leyst með aðferð gagnrýni og sjálfsgagnrýni. Þá er og tekið til meðferðar samskipti leiðtoganna og fjöldans og hvernig flokksforystan verður ávallt að hafa í huga þjónustu við alþýðuna í hvívetna, en varast þá hættu að líta á sig sem hafna yfir fjöldann.

Sá kunni leikritahöfundur, Bertolt Brecht, kallaði sum verk sín kennsluleikrit. Slík leikrit gerði hann til að kommúnistar mættu læra af þeim mistökum, sem gerð voru eða myndu gerast í byltingarbaráttunni. Á sama hátt mætti kalla Fansjen kennsluleikrit. Það eru ekki síður leiðtogarnir sjálfir sem gera mistök, en mistökin eru til að læra af og með því að beita miskunnarlaust aðferð sjálfsgagnrýninnar tekst að leiðrétta þau í tæka tíð.

Það er mikið um fundarhöld í leikritinu, en allar mikilvægar ákvarðanir, sem skipta máli fyrir lífsafkomu bændaalþýðunnar, eru teknar á fundum.

Þessir fundir eru líka gagnlegir til að uppfræða alþýðuna og efla pólitískan þroska hennar. Áður en unnt er að steypa lénsherranum af stóli og framkvæma jarðnæðisskiptinguna verður að byrja á því að fræða bændaalþýðuna um stéttaskiptinguna í þjóðfélaginu og hvernig kjör hennar og lénsaðalsins grundvallast á ólíkum stéttarhagsmunum.

Þegar starfshópurinn á vegum Kommúnistaflokksins kemur til þorpsins í því skyni að fylgjast með gangi mála fremur hann tvenns konar alvarlegar villur, sem flokksforystan í héraðinu bendir síðar á sem skólabókardæmi um vinstri-hentistefnu. Þessar villur eru annars vegar fólgnar í því, að forysta bændasamtakanna á staðnum er dæmd til þyngri refsingar en ástæða var til og án þess að málin væru rannsökuð til hlítar; hins vegar í því, að starfshópurinn sneri máli sínu einungis til fátæku bændanna, en lét miðslungsbændurna afskiptalausa. Í sumum ritsmíðum sínum hefur Maó Tsetung m.a. bent á nauðsyn þess, við framkvæmd jarðnæðisumbótanna, að sameina sem flesta til þess að einangra hinn fámenna hóp lénsherra.

Leikritið Fansjen er um margt mjög lærdómsríkt, en þó einkanlega fyrir þá sem vilja hér á landi halda á lofti kenningum Maós formanns og starfa samkvæmt þeim.

Framhald af forsíðu

# Innrás Ísraela í Líbanon

Palestínska frelsishreyfingin lítur á hina þjóðlegu og framsæknu hreyfingu í Líbanon sem bandamann sinn í sameiginlegri baráttu. Þetta bandalag var styrkt í líbönsku borgarastyrjöldinni, þar sem palestínsk og líbönsk alþýða mætti sameiginlegum óvini sínum, fasistaherjunum. Í Suður-Líbanon halda ísraelsku herirnir enn u.þ.b. tíu bæjum á valdi sínu. Þeir veita hægri mönnum fullan stuðning sinn, í þeim tilgangi að halda ástandinu sem ótryggustu og halda íbúum svæðisins í stöðugum ótta. Ágirnd Ísraela á Suður-Líbanon hefur ekki breyst, heldur hafa þeir síaukið ásókn sína til að ná yfirráðum yfir hinum auðugu vatnsorkulindum sem þar er að finna. Þeim bardagaaðferðum sem nú er beitt, sífelldum loftárásum á bæi í Suður-Líbanon, er ætlað að hrekja íbúana á brott til þess að einangra megi heri palestínumanna og hefja síðan þunga árás og útrýma þessum herjum. Þar af leiðandi yrði Suður-Líbanon opið fyrir ágirnd Ísraelsmanna og þeir gætu sest að við Litaniána og þverár hennar. Það má líta á hið magnaða ástand í Suður-Líbanon sem mögulegan neista nýrra átaka í Mið-Austurlöndum".

"Ísrael er að ýta Mið-Austurlöndum út í nýtt eyðingarstríð. Jafnvel Sadat, sem veitti Ísrael örugg landamæri og viðurkenningu fór til Ísrael til að sýna sinn góða vilja, hann mun ekki verða verðlaunaður. Hinar nýju leiðir Sadats enda í ófærum, og eftir nokkurra mánaða tilgangslausra samningaviðræður mun Sadat sitja uppi með sama gamla raunveruleikann".

"Þó palestínska byltingin haldi hátíðlegt þrettán ára afmæli sitt, er hún fullkomlega meðvituð um að hún á langa og erfiða leið fyrir höndum í framtíðinni. En byltingin er ákveðin í að þola allar fórnir og halda áfram baráttunni gegn öllum samsærum og brögðum til að einangra þjóð okkar og svipta hana rétti sínum til að lifa í friði, frelsi og virðingu eins og allar þjóðir heims.. Það er ekki hægt, að ganga framhjá palestínsku byltingunni og það verður að vera öllum ljóst að ekki mun verða um neinn frið að ræða í Mið-Austurlöndum, nema spurningin um Palestínu verði útkljáð og þjóð okkar öðlist aftur rétt sinn til sjálfsákvörðunar og sjálfstæðis".

Það ætti að vera öllum ljóst eftir lestur þessara tilvitnana, að innrás Ísraela kemur palestínumönnum ekkert á óvart. Það var aðeins tímaspursmál hvenær innrásin yrði gerð og allar tilraunir til að notfæra sér skærur PLO í Ísrael sem tylliástæðu eru tilgangslaust fálm. Hin raunverulega ástæða fyrir innrásinni er sú staðreynd að Ísrael undir stjórn síonista er heimsvaldasinnað fasistaríki sem svífst einskis í útþenslu-og yfirdrottnunarstefnu sinni. Markmið þeirra er að ná yfirráðum yfir hinu gamla Ísrael sem sagt er frá í Biblíunni. Hér er um að ræða landsvæði sem teygir sig langt út fyrir núverandi landamæri Ísraels, í norður, austur og suður. Þetta svæði nær meðal annars yfir Líbanon, Sýrland, Jórdaníu og Saudi-Arabíu svo eitthvað sé nefnt. Og enginn skyldi halda að síonistarnir hafi ekki fullan rétt til framkvæmdanna. Begin forsætisráðherra hefur marglýst yfir guðlegum rétti Ísraelsmanna til að ráða yfir hinu gamla Ísrael Biblíunnar. Hjá nasistum hét það réttur æðri kynstofns til að ráða yfir heiminum. En víkjum nú að því sem er að gerast í Ísraelsríki sjálfu.

Það er ekki fyrr en árið 1965 að Palestínumenn hefjast handa um að skipuleggja vopnaða andstöðu gegn kúgurum sínum síonistunum. Fram að þeim tíma hafði öll barátta þeirra verið fálmkennd og ómarkviss og enginn hafði gert sér grein fyrir hvaða leið skyldi farin til að frelsa föðurlandið Palestínu og hrinda kúguninni sem sífellt fór vaxandi. Þegar PLO er stofnað 1965 er í fyrsta sinn sett fram skilgreining á Ísraelsríki síonistanna, sem heimsvaldasinnuðu fasistaríki er aðhyllist miskunnarlausa kynþáttastefnu og útþenslu- og yfirráðastefnu, sem ekkert fái stöðvað nema vopnuð andstaða. PLO setur fram palestínsku byltinguna, vopnaða baráttu alþýðunnar, sem andsvarið gegn yfirgangi síonismans og heitir á Arabaríkin, alla lýðræðissinnaða gyðinga og alþýðu heimsins til samstöðu. Á sama tíma og Palestínumenn hefja skipulagningu skæruliðasamtaka sinna í löndunum kringum Ísrael, hefja þeir einnig að skipuleggja baráttuna innan Ísraelsríkis. Þetta var erfitt og hættulegt verk. Arabar sem grunaðir eru um stuðning við PLO eru umsvifalaust hnepptir í fangelsi þar sem þeir verða að sæta svívirðilegum og miskunnarlausum pyntingum og jafnvel dauða. Heilu þorpin, þar sem talið er að andspyrnuhreyfing Palestínumanna hafi bækistöðvar, eru jöfnuð við jörðu og íbúarnir ýmist drepnir eða fluttir nauðugir til annarra staða þar sem þeir þekkja engan og er haldið í fangabúðum. En þrátt fyrir miskunnarlausa grimmd síonistanna hefur PLO tekist að byggja upp öfluga andspyrnuhreyfingu sem teygir arma sína um allt Ísrael og herteknu svæðin. Þessi hreyfing nær ekki aðeins til araba heldur í síauknum mæli til gyðinga sjálfra sem eru meir og meir að gera sér grein fyrir því að síonisminn er engu að siður andstæðingur þeirra en araba, Stór hluti gyðinga sem flust hefur til Ísraels verður að búa við sömu lélegu skilyrðin og kúgunina og palestínumenn. Þetta fólk, svokallaðir Austurlandagyðingar, er svipt öllum mannréttindum.

Í baráttu sinni gegn hinni vaxandi andstöðu innan Ísrael hafa síonistarnir oft gripið til örþrifaráða sem meðal annars hafa leitt til þess að þeir hafa drepið tugi ísraelskra borgara. Gott dæmi um þetta eru nýafstaðnir atburðir í Ísrael, þar sem palestínumenn notfærðu sér fólksflutningabíl til að koma í kring áætlun sinni um árás á hernaðarmannvirki. Þegar ísraelsher gerði sér grein fyrir hvernig leikið hafði verið á hann og sá að skæruliðar höfðu náð fram áformum sínum var fyrirskipuð árás á fólksflutningabílinn.

Lífum tuga óbreyttra borgara skyldi fórnað í þeim tilgangi að breiða yfir hernaðarlegan sigur palestínumanna og koma sökinni um miskunnarlaus dráp á óbreittum borgurum yfir á þá. Ísraelski herinn hefur aldrei viljað viðurkenna hernaðarlega ósigra fyrir palestínskum skæruliðum, heldur hafa þeir alla tíð reynt að breiða út það álit að arabar séu samansafn letingjaskríls sem ekkert nenni annað að gera en stela og myrða. Vegna þessa hefur alls kyns lygaáróðri verið dreift, sem ætlað er að varpa rýrð á palestínsku þjóðina og menningu hennar.

Með innrás sinni í Suður-Líbanon vonast Ísraelsmenn meðal annars til að geta rofið sambandið milli PLO í Ísrael og utan þess. Með þessu vonast þeir til að eiga auðveldar með að ráð niðurlögum neðanjarðarstarfseminnar. En PLO og palestínska þjóðin í heild koma óhrædd til baráttunnar og eru staðráðin í að leiða byltingu sína sigursæla til lykta, svo draumur þeirra um frjálst lýðræðisríki allra manna í Palestínu megi verða að raunveruleika.



Palestínsk börn verða að berjast fyrir því að lifa í friði!

## Af fjölmiðlum

Sjálfskipaðir kommúnistar...

Menn verða ekki sjálfskipaðir kommúnistar, né heldur á hroki og yfirdrepsskapur samleið með baráttu verkalýðsstéttarinnar. Þennan einfalda sannleik hafa foringjar EIKm-l ekki skilið. Þegar gripið er niður í málgagn þessara samtaka blasir við sjálfumgleði og hroki af síðum þess.

EIKm-l hefur tekið þátt í ýmsu starfi, t.d. 1.des og 8. mars. Einkenni á starfi þessara samtaka er að þau eigna sjálfum sér áranguirinn en álíta þátt fjöldans lítilvægan. Kommúnistum ber að leggja traust sitt á fjöldann og hroki og sjálfshól færir fjöldann ekki nær markmiðum sínum.

Formaður EIKm-l túlkar vel þennan sjálfsbirgingshátt í viðtali sem birtist í 4. tbl. Verkalýðsblaðsins á þessu ári. Þar segir hann m.a. þetta: "Gamli KFÍ (1930-38) sem var um margt gallaður flokkur átti upphaf ekki ósvipað EIKm-l". Sérhver sá sem lítur sögu verkalýðsins allsgáðum augum, veit að þetta eru innantóm orð. KFÍ var stofnaður upp úr þingi Alþýðusambandsins árið 1930 og hann hafði þegar svo sterk ítök innan verkalýðshreyfingarinnar, að kratarnir klufu verkalýðssamtökin. Verkalýðshreyfingin Norðanlands og víðar fylgdi KFÍ algerlega og skipulagsstyrkur flokksins var mjög mikill. Það er kátbroslegt að jafna tilurð KFÍ við EIKm-l sem eiga hvergi fylgi nema í háskólanum og meðal erlendra námsmanna. Og það er enn kátbroslegra þegar formaðurinn bætir við "Ísl. kommúnistar nú á tímum standa betur að vígi en kommúnistar þá og hafa náð betri árangri á svipuðum tíma".

Greinilega er formaðurinn að lítillækka fórnfúsa baráttu kommúnista og verkalýðsins á fjórða áratugnum, í því auvirðilega skyni, að upphefja og hampa EIKm-l. Sjónhverfingar og orðskrum leiða ekki til neins - dramb er falli næst.

## HVAÐ ER STJÓRNMÁLAFLOKKUR ?

Framhald af forsíðu

Ljóst er allavega að þetta frumvarp á að treysta forréttindi núverandi flokka á þingi. Það á gera öðrum flokkum erfitt fyrir bæði með því að þrengja möguleika til framboðs og einnig með því að ausa fé í núverandi þingflokka. Erfitt er að segja þó nákvæmlega til um tilgang frumvarpsins fyrr en það sést opinberlega Strax og frumvarpið verður lagt fram mun verða betur um það fjallað í Stb.

Að lokum er rétt að rifja upp umræður nokkurra þingmanna í sjónvarpi á föstudaginn um þetta mál. Þeir reyndu eftir bestu getu að forðast umræðuefnið og rifust þess í stað um það hverjir fengju greitt erlendis frá. Í þessu sambandi er rétt að spyrja hvort flokkarnir njóti ekki góðs af áróðursskrifstofum risaveldanna á Íslandi. Er ekki Alþýðubandalaginu pólitískur styrkur i APN-ritinu Frettum fra Sovétríkjunum? Og er ekki íhaldinu styrkur af Menningarstofnun Bandaríkjanna og áróðursskrifstofu NATÓ á Íslandi?



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
Þriðjudagurinn 21. mars 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.

# Vinnandi fólk sameinist 1.maí



Eins og skýrt var frá í síðasta tölublaði Stéttabaráttunnar, þá bauð Kommúnistaflokkurinn ýmsum samtökum og hreyfingum til fundar s.l. sunnudag. Til þessa fundar var boðað í þeim tilgangi að ná sem víðtækastri samstöðu um ákveðin baráttumál í væntanlegri kröfugöngu á alþjóðlegum baráttudegi verkalýðsins 1. maí.

Á þennan fund sendu ýmsir aðilar fulltrúa sinn, Fylkingin, Eik(ml) o.fl.

Það sem var einkennandi fyrir umræðurnar, sem að vonum voru mjög víðtækar, var hversu menn voru málefnalega sammála. Þetta er mjög gleðileg breyting til batnaðar frá því sem verið hefur undanfarin ár, en þau hafa stundum einkennst af karpi um atriði sem raunverulega skipta ekki höfuðmáli.

Sú tillaga sem Kommúnistaflokkurinn setti fram um grundvöll að samstarfi þann 1. maí, er greinilega sá vísir sem róttæki armur verkalýðshreyfingarinnar getur samfylkt sér um. Lítilega greinir þó á um ýmis smærri atriðin en þau verða þó ekki látin standa í vegi fyrir víðtækri samfylkingu um megin málefnin.

Það sem þó skyggði á það að eins víðtæk samfylking næðist eins og mögulegt er, var sú afstaða fulltrúa Eik(ml) að þeir vildu ekki ganga með Fylkingunni. Þessi afstaða Eik(ml) felur það í sér að gamlar erjur þessara tveggja samtaka eru látnar sitja fyrir núverandi hagsmunum verkalýðsstéttarinnar. Eik(ml) hafa nú þegar hafið undirbúning að kröfugöngu sem samtökin ætla að standa fyrir og ber sú aðgerð nafnið "Samfylking". Sá grundvöllur sem "Samfylking" stendur á er málefnalega nær alveg samhljóða þeirri tillögu sem Kommúnistaflokkurinn setti fram sem grundvöll að kröfugöngunni "Baráttueining".

Af því leiðir að kommúnistar geta engan veginn réttlætt að um tvær slíkar göngur verði að ræða á 1. maí.

Milli Kommúnistaflokksins og Fylkingarinnar er fullur möguleiki á samstarfi. Lauk umræðum milli þessara tveggja samtaka á þann veg að báðir aðilar skyldu draga saman niðurstöður sínar og halda síðan fund þar sem endanlega yrði gengið frá hvort um samstarf verður að ræða og þá á hvern hátt.

Fulltrúi Eik(ml) taldi möguleika á samstarfi við Kommúnistaflokkinn, "á einstaklings grundvelli" en hélt fast við það að félagar í Eik(ml) gengju ekki með félögum í Fylkingunni. Milli fulltrúa Eik(ml) og annarra fundarmanna risu þá deilur um þetta mál og urðu þau endalok að fulltrúinn gekk af fundi, þrátt fyrir að hann væri beðinn um að sitja hann til enda.

Samfylkingartilboð Kommúnistaflokksins til Eik(ml) stendur enn óhaggað og er það von hans að Eik(ml) endurskoði þessa einangrunarsinnuðu afstöðu sína.

Það sem er mikilvægast á fyrsta maí er að virkja sem flesta til baráttu fyrir mikilvægustu hagsmunum verkalýðsins. Sérhagsmunir einstakra flokka mega alls ekki verða til þess að koma í veg fyrir að verkalýðurinn sameinist til baráttunnar 1. maí.

Samtökin á vinstrikantinum verða nú að gera sér grein fyrir mikilvægi þess að sameinast um það sem þau eru sammála um. Og þegar allt kemur til alls þá er ekki svo mikið sem greinir á milli í málefnalegum grundvelli þeirra.

# Lygaáróðurinn gegn Kína

Síðustu misseri hefur auðvaldspressan farið hamförum í áróðri sínum gegn Alþýðulýðveldinu Kína. Fréttaflutningur af mönnum og málefnum í þessu fjarlæga landi er oft með þeim hætti, að allt er lagt út á hinn versta veg. Oftast er enginn fótur fyrir þeim fréttum sem íslenskir fjölmiðlar flytja af Kína, þar sem þær eru hafðar eftir óábyrgum fréttastofum svo sem APN og REUTER eða þær koma frá Hong Kong eða „Formósuklíkunni". En hver er ástæða þessa herta lygaáróðurs ? Án efa er ein höfuðástæðan sigurinn yfir andflokksklíku „fjórmenninganna" og kosning Hua Kua Fengs í sæti formanns Kínverska kommúnistaflokksins Hafi auðvaldið og endurskoðunarsinnarnir í Kreml, vonast til að auðvaldsskipulagið yrði endurreist í Kína, eru þær vonir nú að engu gerðar. Í bræði sinni hefur auðvaldið því gripið til hinna alræmdu gróusagna sinna, eins og við máttum heyra í kvöldfréttum ríkisútvarpssins nú fyrir skömmu. Þar var lesin frétt þess efnis að Kínverjar hefðu lagt niður verksmiðjuráðin, en ríkisskipaðir forstjórar skipaðir ofanfrá ættu að stjórna framleiðslunni héreftir. Þetta ef satt væri hefði þær afleiðingar að hornsteinn sósíalisks lýðræðis verksmiðjuráðin er verkafólkið myndar til að stjórna framleiðslunni væru afnumin og það með völd þeirra sem í framleiðslunni eru yfir sínum vinnustað. En það var með þessa frétt eins og svo margar aðrar stórfréttir frá Kína, eins og t.d. þegar því var logið að þeir væru að taka upp bónuskerfi til að hvetja verkafólkið til vinnu (sic) að jafnvel þó að þær væru stórfréttir voru þær aðeins lesnar einu sinni. Síðan hefur ekki meira til þessara mála spurst í þessum hlutlausa ríkisfjölmiðli. Slíkt er einnig dæmigert um aðrar lygafréttir. Þær birtast einu sinni, en síðan aldrei meir. Og að sjálfsögðu sjá fréttamenn þessir enga ástæðu til að leiðrétta „mistökin" þegar hið sanna kemur í ljós.

Allnokkuð hefur verið fjallað í fjölmiðlum um þá nýbreytni í skólamálum Kínverja að taka upp inntökupróf í æðri skóla. Í öllum tilvikum hefur verið sagt frá þessum framförum í Kínverskum skólamálum á þann hátt að hér sé um afturför að ræða. Til þess að svo megi vera hafa fréttamenn algerlega sleppt þeim rökstuðningi sem Kínverjar sjálfir settu fram þegar breytingin átti sér stað.

Hið sanna um um nýbreytni í skolamálum í Kína er að til að hleypa fleiri nemendum á að leyfa inntökupróf, skipulagt samkvæmt samræmdri ríkisáætlun fyrir skólagengna æskumenn, sem hafa sest að á landsbyggðinni, hermenn leysta frá herþjónustu, starfsmenn ríkisstofnana, kennara í efri miðskólum, fyrir utan verkamenn, bændur og hermenn. Þetta mun auðvelda það að hinir hæfustu fái æðri menntun, svo hægt sé að útskrifa vel menntað fólk, á sem skemmstum hugsanlegum tíma. Það er liður í því að gera Kína að nútímalegu, voldugu sósíalisku landi.



Bóndakona segir kennurum og nemendum frá þjáningunum í gamla þjóðfélaginu og þýðingu hins pólitíska valds öreiganna.

Framhald á bls. 3

# HVAÐ VILL STJÓRNMÁLAFLOKKURINN?



Eiríkur Rósberg



Steinunn Ólafsdóttir



Kristmundur Sörlason



Tryggvi Bjarnason



Ólafur E. Einarsson

Oft rísa upp furðulegustu fyrirbæri í landinu þegar kosningar eru í nánd og oftast nær til hægri við Sjálfstæðisflokkinn. Það nýjasta, sem tvímælalaust tekur flestu fram í hægri apahætti (svo að jafnvel trúðar eins og Hannes Gissurarson mega fara að vara sig) er Stjórnmálaflokkurinn. Hann á það sammerkt með svipuðum fyrirbærum að koma með málskrúðugar yfirlýsingar um að allir séu vondir og er þá sama hvort þeir eru til hægri eða vinstri. Stjórnmálaflokkurinn er nefnilega það hægrisinnaður að stefna hans jaðrar við fasisma á köflum en afleiðing af því er að allir aðrir flokkar falla til vinstri í augum flokksins.

Þessari grein er ætlað að skoða nokkur þeirra atriða sem Stjórnmálaflokkurinn setur fram í málgagni sínu (sem er samnefnt flokknum) og geta þá lesendur sjálfir dæmt um hann eftir lesturinn.

Hvað vill Stjórnmálaflokkurinn? (grein á forsíðu blaðsins).

1. "Stjórnmálaflokkurinn vill breyta stjórnarskrá lýðveldisins Íslands, meðal annars á þann veg að löggjafar- og framkvæmdavald verði aðskilin" (bein tilvitnun). Eflaust gera sér flestir grein fyrir að í dag eru löggjafar- (Alþingi, að orði kveðnu) og framkvæmdavald (lögregla o.fl.) aðskilin. Sýnir þetta kjánahátt þeirra sem að flokknum standa.

2. "Að Nato - ríkin, sem hafa mikið landflæmi á Miðnesheiði til afnota fyrir þann herafla, sem ætlað er það mikilvæga hlutverk, að gæta hagsmuna lýðræðisríkja, sem eru aðilar að bandalaginu á Norður-Atlantshafinu, taki skilyrðislaust þátt í uppbyggingu vega, flugvalla og hafnarmannvirkja hér á landi og taki á þann hátt raunverulega þátt í vörnum Íslands" (bein tilvitnun). Það liggur ljóst fyrir að Stjórnmálaflokkurinn er talsmaður aronskunnar, enda eðlilegt þar sem hann er byggður upp af einokunarvana auðherrum sem fá því ekkert í aðra hönd frá hernum eins og hinir stóru (Geir o.fl.) fá. Geir segir því: "Herinn er hér til að vernda okkur. Þess vegna væri það ósiðlegt að láta hann borga". Hann og hans líkar græða á hernum og vilja því ekki leyfa öðrum það líka. Stjórnmálaflokksmenn og ámóta karakterar segja hins vegar: "Herinn er hér ekki til að vernda okkur. Þess vegna á hann að borga fyrir aðstöðu sína hér". Þeir sem þetta segja vilja nefnilega fá eitthvað af dollurunum líka. - Um afstöðu Kommúnistaflokksins til keppikeflis slíkra manna, aronskunnar, má lesa í síðasta tbl. Stb.

Ólafur E. Einarsson forstjóri og formaður Stjórnmálaflokksins skrifar í málgagnið sitt og segir orðrétt: "En þar sem fullkomið frjálsræði ríkir í fréttaflutningi getur alltaf sú hætta legið í

Framhald á síðu 4